þier fryer verded fra þeſs helviijtſka Ellds Ofhita, þa gioreſt eiñig heiter med Sumarſins Hita, ad hann ſkirpe ydur ecke wt, ſo ſem þeim Volgu, af ſijnum Munne, Apoc. 3. helldur ad hann fære ydur burt wr Ofhita Mootlætinganna, þangad ſem Soolen mun ecke falla yfir ydur, nie nockurskonar Hitè, eñ Lambed midt a Stoolnum fæder ydur, og leider til lifande Vatns-Brunna, Apoc. 7. Umþenked:

5. Ad a Sumrenu lætur Gud rigna a Jordena, og þad verdur Ordſok til hennar Frioofgunar; Þad ſkal og vera ydur Ordſok til ad þenkia um þad andlega Sumar, þvi nu geſur Gud ſo naadarſamlegt Regn, og ſijna Arfleifd ſem þornud er, endurlijfgar hann, Pſ. 68. Eñ þad Regned er hanns naadar-rijka Evangelium, Himnarner hafa droped ofanad, og Skyen hafa rignt Riettvijſenne, Eſ. 45. Gud heſur foodrad oſs i lyſtelegum Gras-Haga, og leidt oſs fram ad ferſkum Votnum, Pſ. 23. Þar fyrer, taked Vara a þeſſum ydar Vitiunar Tijma, og i Dag, þo ad þier heyred hanns Rodd, þa forherded ecke ydar Hiortu, ſo hann ſverie ydur ecke i ſinne Reide, og ſege: Þier ſkulud ecke iñkoma til minnar Hvijlldar, Pſ. 95. Medtaked med Fagnade, med Packlæte, med Lijtillæte, med Alvorugefne hanns bleſſada Ord, medann þier meged þeſs nioota, og mootſtanded ecke hanns Naad þar inne, helldur rootfeſted þad i ydar Hiortum, ſo ſem mogulegt er, ſo ad

þier

hier færed þar af gooda Avexte, og verded ecke ein hvilijk Jord, sem til forgefens rigner aa, med þvi hier hafid hanns Ord enn þaa hreint, lifid ecke sem Heidingiar, þvi þad heidinglega Framferde er eitt Kennemerke til þess, ad Orded er foragtad, uppaa þad, ad Gud straffe ydur ecke med þeirre Plaagu sem hann hootar ollum Heidingium þeim sem ecke vilia hallda hanns Setninga, sem er, ad ecke skule rigna yfir þaa, Zach. 14. Hiñe somu hootar hañ, Am. 8. og seger: Tijmenn kemur, ad eg vil senda Hwngur i Landed, ecke Hwngur Brauds eda Vatns, helldur Hwngur Ords DRottenns. Giæted þess, ad þad vonda andlega Hwngur sem hier er nefnt, kann ad verka um̃ sijder eitt eilijft Hwngur, og ad vijsu eilijfann Dauda, þvi Madurenn lifer ecke af einusamann Braude, helldur af sierhvoriu Orde, sem framgengur af Guds Munne, Matth. 4. Elsked þess vegna ecke einasta Guds Ord af Hiarta, sem kann ad sedia ydar Saaler og svala þeim, sem kann ad frioofga ydar þurru Hiortu, so hier færed Avoxt, sem kann ad verka i ydur andlegt og eilijft Lijf, Joh. 6. Helldur Otteſt Gud einnig, og bided jafnanninnelega ad hann vidhallde þvi hreinu hiaa ydur, epter þvi sem Guds Ande bydur, Zach. 10. segiande: Þar fyrer bidied um̃ Kvolld=Regn af DRottne, so mun DRottenn giora Sky, og gefa ydur nooga Dogg til allrar Frioofgunar ydar Jardar, og hann mun laata rigna yfer

ydur

ydur i riettann Tijma, og þad mun verda ein Blessunar Dogg, so sem hann fyrerheiter, Ezech. 34. Hvør vill tregur vera ad bidia um̃ so gooda Hlute, sem gooda Von hefur ad mega faa þaa? Um̃ Kvollds-Regn er þeim ei sijst Nauds-synt ad bidia yfer hvoria Kvølld Heimsens er komed, so ad Ligarner drottne ecke yfer þeim, so ad Hugsvolun þeirra verde ecke til Onytes, þar fyrer bidied, og mun ydur gefast Matth. 7. Um̃þeinked:

6. Ad aa Sumrenu uppsprettа og bloomgast Avexterner, þo þeirra Fræ ligge folt, daudt og fwed i Jordunne um̃ Veturenn; Hvad ed er ein Epterlijking, uppaa þad eilijfa Sumar, sem byriast med Upprisu Framlidenna, þad kienner Christus, Joh. 12. segiande: Nema þad ad Frækorned falle i Jordena og deye, þaa blijfur þad einsamallt, enn ef þad deyr, þaa færer þad mikenn Avøxt, þad heimfærer Paulus enn framar uppaa Mannsens Holld, 1 Cor. 15. Segiande: Þad verdur saad forgengelegt, enn mun upp aptur rijsa Oforgengelegt, þad verdur saad i Vansæmd, eñ mun upp aptur rijsa i Veg-semd; Þad vitnar Ande Guds: Es. 26. Þijn-er hiner Daudu munu lifa og med Lijkomun-um upp aptur rijsa; Vaked upp! Losseged þier, sem ligged i Jordu lukter, þvi ad þijn Dogg er sw Dogg hinns græna Vallarenns; Og so sem, nær Avexter Jardarennar eru fullvaxner, til-reida Menn af þeim Braud og Vijn, hvørt

þeir brwka til Glede i Gestabodum, so mun og DRottenn Zebaoth þa giora uppa sijnu H. Fialle eitt. feitt Gestabod af klaaru Vijne, af Feite, Merg og dreggialausu Vijne, og hann mun a þessu Fialle burttaka Lijfblæiuna þar ed allt Foolk er med sveipad, þvi ad hann mun Daudann burtsvelgia eilijflega, Es. 25. Þetta hid eilijfa Sumared er þad, til hvors þier skulud þeinkia og stunda, þvi þo þad forgengelega Sumared, kunne ecke ad gefa ydur fullkomna Vellysting, þa kann þetta Oforgengelega þad ad giora, þvi vijst er þad, ad aller sem Gude hafa trwlega þioonad, munu epter þad, þeir eru upprisner af Jordunne, inngaanga i eilijft Lijf, Matth. 25. hvar þeir nioota eilijflega þeirrar Sælu, sem meire er enn fraa mege segia, þvi þad hefur eige Auga sied, og eige Eyra heyrt, og eige er i Mannsens Hiarta komed, hvad Gud hefur fyrerbwed þeim er hann elska, 1. Cor. 2. Fagned og glediest þar af, oll Guds Born, ad þesse Sælu Tijme er ydur fyrerbwenn; Fagned og glediest þar af, ad hann er nalægur, hvad þier saed skiniad, nær þier samannbered Fyrersogn Christi um Teiknen sem skie munu fyrer Dooms Dag, vid nærverande Tijma, og þad sem a þeim skiedur; Fagned og glediest þar af a nærverande Sumre, ad þad er ydur eitt Minnes Teikn uppa tilkomande Oforgengelegann Dyrdar-Tijma, so sem JEsus kenner i þessu Evangelio, hvar ed hann kall-

kallast Guds Rijke, þad er: Hanns eilijfa Dyrdar Rijke.

O vor Gud og Hiálpare, HErra JEsu! Kom snarlega, til ad frelsa oss frá þvi Sorgengelega, og innleida oss i þad fagurblómgada Land lifande Manna, hvar ekke er nokkur Ummbreyting Tímans, helldur eilif Fagnadar Tíd, fyrer Sakker þinnar heiløgu Forþienustu, Amen! Amen!

# A Mid-Sumars Bænadag.

Evangelium, Marc. 4.

Og hañ sagde: Guds-Rijke er lijka so sem, nær Madur kastar Fræe i Jördena, og sofnar siidañ, og hañ skendur upp Noott og Dag, enn Fræd vex upp, so ad hann veit eige

eige, þvi Jørden fæter Avøxt af sier siælfre, i fyrstu Grasid, þar næst Axed, og er þad hefur fram leidt Avøxtenn, þaa sender hann strax Kornsigdenn, þviad Korn-skurdar-Tijmenn er komenn.

# Inngaangurenn.

Þetta H. Evangelium er ein Epterlijking af Christo framsett, sem tekenn er af jardneiku Akur-Verke, Mønnum til Uppfrædingar, ad þeir þvi betur lære af Samlijking þessa jardneska og mannlega Verks, sem þeir hafa af Nætturunne frekare Skilning aa, hvørnig þeir eige ad þeckia Guds Þioonustu i hanns Akre, so þeir kunne sijnum Herra rettelega ad þioona, þeim siaalfum til tijmannlegra, andlegra og eilijfra Giæda-Nota. Margar Epterlijkingar af ímsu Efne eru framsettar i H. Ritningu, teknar af jardneskum Hlutum, enn faaum af þeim er vid fleire andleg Efne samlijkt enn Akur-Verkenu, hvort þo er einkannlega tveñslags: 1. Nætturlegt Akur-Verk. 2. Andlegt Akur-Verk. Þad nætturlega Akur-Verk er þad, nær eiñ Akur-Madur, añadhvort siaalfur, edur fyrer sijna Þienara plæger, og yrker

Jord-

Jordena i riettann Tijma, so hun verde hæfeleg til Saadverksens, saer þar nærst Sædenu, i þann tilbwna Akur, og bydur so epter Grassens og Kornsens Vexte, allt þaangad til þad er fallvaxed, þa lætur hann løksens Kornskurdar-Menénena, slaa edur uppskiera Korned, med þeirra Sigd, a Kornskurdar-Tijmanum; Og samannsafna Hveitenu i hanns Kornhlodu, enn Ognunum og Illgresenu til Elldsneytes, þar um maa lesa, Gen. 30. Ruth. 2. Matth 13. Og vijdar annarsstadar; Þad andlega Akur-Verk er fierdeiles fernslags: 1. Er þad, sem vidkemur Mannanna Athofnum, þegar Mañeskian gioreft Akur-Madur, og saer i Akur christelegrar Kyrkiu, añadhvort Illu og i Holldenu, þad er, Løstum og Odygdum, enn uppskier vonda Giörninga og Skadseme, þad er, Plaagur og Fordiörsun, ellegar hañ saer Rettlætenu og i Andanum, þad er, goodum Dygdum, enn uppskier Kiærleikann og eilijft Lijf, Hos. 10. Gal. 6. 2. Er þad andlegt Akur-Verk, sem vidkemur Lijkømum Guds Barna, þegar Gud er Akur-Madurenn, og epter tijmannlegann Dauda, lætur þa nidursaast i Vansemd, i Akur Jardarennar, og þadann aptur upprijsa i Vegsemd, 1 Cor. 15. 3. Er þad andlegt Akur-Verk, sem vidkemur Mañanna Saalum, þegar Gud er Akur-Madurenn, og saer Sæde sinna H. Orda, i Akur Mannanna Hiarta og Saalna, ad þeir bære

D þar

þar af Avexte Rettlæteſins, wtſendande ſijna Kennemenn, til ad vera Verka-menn, i þeirre hanns Kornſkieru, Luc. 8 og 10. 4. Er þad andlegt Akur-Verk, ſem vidkemur øllum Mannenum, þegar Gud er Akur-Madurenn, ſem ſaad heſur i Akur Heims þeſſa, þvi gooda Hveite-Sæde, ſem eru Guds Rijkes Syner, enn nær hanns Þienarar ſvaaſu og vokrudu ei Akurenn, ſaade Dioſullenn þar i bland Illgreſenu, ſem er Illſkunnar Syner, þeſſa Avexte til ad uppſkiera, wtſender hann a Kornſkurdar Tijmanum, þad er a Enda Heimſens, ſijna Kornſkieru Menn, Englana, ad þeir ſafne Hveitenu i hanns Kornhlødu, enn kaſte Ognunum og Illgreſenu i Ofn þeſs Oſlockvannlega Ellds, Matth. 3. og 13. Um̃ þetta Akurverk talar þad H. Evangelium ſem ſtrax var uppleſed, þvi jafnvel þo i þvi ſtande, ad Akur-Madureñ ſeſur, og vite ei þaa ed Fræed vex upp, þaa er þad talad, fyrſt epter mannlegum Plagſid, og i Tillite til Mannanna Skilnings, þar næſt, i Tillite til þeirra raungra Meiningu, er þyker ſem Gud giæte ecke ad, ſkeite ecke um̃, edur jafnvel vite ecke af, um̃ þeirra Fram̃ferde; Enn ſo þetta verde enn þaa auglioosara fyrer vorum Skilninge, vilium vier fram̃veges yfirvega: **Hvørſu þeir, ſem vilia vera Børn Guds Rikes, ſkule ſier hegda i hanns Akre, ad þeir umm ſider, ſem Hveite, ſafnader verde i hanns Kornhlødu.**

**O vor**

O vor Gud og HErra! hiælpa oss þar til, med Fulltinge þijns H. Anda, i vors Frelsara JEsu Nafne, AMEN.

# Utskijringen.

Jorden, hun er DRottenns, og hvad i henne er, Jardar-Krijnglan, og hvørier þar inne bwa, seger hinn H. David, Ps. 24. og ecke ææn Ordsaka, helldur til þess ad Menn lære ad trwa, fyrst, þvi, ad sæ almæættuge Gud, sie rettur Eignar-Herra allra Hluta æ Jordunne, og eins vel Mannanna; Þar nærst, ad hann bere Um̃hyggiu fyrer sijnum Skepnum. Ecke þarf Manneskian ad ætla, ad hun sie þess Eignar-Herra, sem Gud hefur heñe læænad og gefid til Brwkunar, ecke nema æ medann hun lifir æ Jordunne, þvi þææ hun deyr, hefur hun eckert i burtu med sier, 1 Tim. 6. Guds er Eignen øll, sem hann mææ giora af hvad hann vill; Þvi seger hann: Bæde Silfur og Gull, er mitt, Hagg. 2. Þvi trwde Job, er hann sagde: DRottenn gaf þad, DRotteñ burt-took þad, blessad sie Nafned DRottenns, Job. 1. Þvi trwde David, er hañ sagde um̃ Gotzed: Ad þad være allt Guds, og allt komed af hanns Hende, 1 Paral. 30. Þvi trwde Paull, er seger: Af honum, og fyrer hann, og i honum, eru aller Hluter, Rom. 11. Ecke þarf hun helldur ad ætla, ad hun sie sinn eigeñ

Herra, helldur Guds Þenare, og skylldug honum ad hlijda, þvi hann er DRottenn hennar Gud, sterkur Vandlætare, vitiande Ranglætes Fedranna a Sonunum, i þridiu og fioordu Ættkvijsl, þeirra sem hañ hata, enn giorande Myskunseme i þusund Lidu, þeim sem hañ elska, og hanns Bodord vardveita, Ex. 20. Eda skyllde hun dirfast annad ad segia, enn hun sie hañs Þioon, og þad þo Onytur Þioon, sem þad einasta giorer hvad hun ætte med Skyldu ad giora, so sem JEsus bijdur? Luc. 17. Eins lijka skyllde eingenn þenkia, ad Gud sie affkiptingarlaus uñ sijnar Skepnur. Er hann ecke sa, i hvorium vier erum, lifum og hrærumst? Act. 17. Lætur hann ecke Grasid uppspretta fyrer Fenadenn, og Kornsæded Monnunum til Nytsemdar? Ps. 104. Fæder hann ecke Himensins Fugla, sem þo hverke sa ne uppskiera? Matth. 6. Eru ecke Konganna Hiortu i hañs Hende so sem Vatnslæker, og hann hneger þau hvert er hann vill? Prov. 21. Sannarlega er hann sa Gud, hvors Lijke ad hverge er, og giorer allt hvad honum velþocknast, Es. 46. Þessum sama Gude, sem er so vel allra Hluta Stioornare sem Herra, honum hefur þocknast ad kalla Mennena, sijna Þenara, til ad þioona, bæde i þeim nátturlega og þeim andlega Akre, sem hvorutvegge er hanns, bæde i lijkamlegu Erfide, og i ymsum Stiettum christelegrar Kyrkiu, so ad allt hvad Madurenn giorer, þad a

hann

hann ad gióra af Hiarta, so sem DRottne, eñ ecke Monnum, so sem Paulus bijdur: Col. 3. vitande þad, ad hvad hann giører Gott, þad mun hann af DRottne medtaka, hvort hañ er Þræll edur Frelsinge, Eph. 6. Hvornig skulu þær Guds Born hegda sier i hanns nátturlega Akre? Gyrnest þier, sem kallast vilied Christ-ner, trwlega ad þioona Gude i ydar lijkamlegu Erfide, hvort helldur þad er Akuryrkia, edur annad sem heyrer til Upphelldes ydar nátturlegu Lijfs, so sem þier hafid nu heyrt, ad þier þioon-ed honum þar inne, enn ecke Monnunum, þær, hvornig þier sæed þad giort, kenner ydur DRottenn.

1. Es. 8. segiande: Helged DRottëñ Zeba-oth, lated hann vera ydar Hrædslu og Otta, þa mun hann ydur til Helgunar vera, þad er, lated oll ydar Verk, og allar ydar Fyrertekter, vera so a sig komnar, ad þier hrædest ad stygg-ia Gud þar med, þeinkiande alltijd a þad, ad hann er Doomare allra ydar Athafna, og end-urgelldur hvorium epter sijnum Verkum, Rom. 2. og sem Jeremias seger: Latum oss Ottast DRottenn Gud vorn, sem oss gefur Morgun Doggena og Kvolld-Regned i rettann Tijma, og vardveiter vora Haustyrkiu arlega Ars trw-legana, Jer. 5. so hann ei yferklage ad þier seged þad ei einusinne i ydar Hiarta, þa mun hann styrkia ydur i ollu goodu Verke.

2. Kienner hann ydur þad, Matth. 22. segiande: Elska skalltu DRotteum Gud þinn, af ollu Hiarta þijnu, og þinn Naunga sem sialfann þig, hvar med ydur verdur synt, ad so sem þier fordest ad styggia þann þier elsked, so skulud þier og i þvi læta sicest, ad þier elsked Gud, og hanns vegna ydar Naunga; Þesse Elskan a so ad framkoma i ydar nætturlegu Erfide, sem odrum Athofnum, ad þier sieud ecke þeir Liwgarar, sem segast elska Gud, og liwga þad þa, med þvi þeir hata sinn Broodur, 1. Joh. 4. Til enn þa frekare Undervijsunar, hygged ad Vegum hinna Otrwu Þioona, ad þier flyed þa, og vijked fra Heimskunne, enn læred Hyggendenn.

1. Leita þeit Otrwu Þioonar sinnar eigenn Æru i sijnu Erfide, enn ecke Guds Dyrdar, meinande, ad þier þioone sialfum sier, en ecke honum, lijka sem þeir vilie ræna hann sinne Dyrd, hvoria hann vill þo eingum gefa, Es. 42. Enn hann seger: Ad sa sig forakte, skule fyrerlitenn verda, 1. Sam. 2.

2. Uppskiera þeir Otrwu Þioonar, þar sem þeir sadu alldrei, og samannsafna, þar sem þeir dreifdu alldrei, og þad so sem fyrer sialfa sig, og ecke sijns HErra vegna, enn trwa þvi ecke, ad þad er mikell Avinningur; hvor hann er gudhræddur og lætur sier sijna Lucku nægia, 1. Tim. 6. nærande sig þannig ecke af Erfide sinna Handa, sem Guds Born, Ps. 128.

helld=

helldur af annara Erfide, og enn framar leitast vid, hvorsu þeir gete þar med audgast; Þvilijker eru Piosfarner, sem selia sinn Herra stundum fyrer einn Pening, og fer þeim þa midur enn Judæ Ischarioth, sem selde hann fyrer þriatiju, Matth. 27. þeir falla og þar med fra hanns Naad, missa einnig, epter hans rettum Doome, hanns Vardveitslu, so hann lætur þa ganga þeirra eigenn Vegu, vegna Synda þeirra, Act. 14. so sem Achab skede, 1 Reg. 22. jafnvel þo hann um nockra Tijma vidhalde þeirra lijkamlegu Lijfe, bijdande epter, ef skie mætte, þeir giørdu Ydran og endurbættu sig.

3. Þretta þeir Otrwu Pioonar Gud, i þvi, sem þeir eiga hanns Safnadar rettum Limum, epter hanns Bode, ad gialda, hvar fyrer hann sialfur seger: Ad þeir sieu bølvader, so ad aller Hluter hverfe wr þeirra Hondum, Mal. 3.

4. Fagna þeir Otrwu Pioonar i þeirra Safne, med hinum rijka Korn-Bwra, eins og være þad þeirra eilijf Eign, enn munu fara skyndelega þar fra so sem hann, ef þeir eru ecke i Gude rijker, Luc. 12. Hafe nockur ydar so þioonad, þa heyred Ord DRottenns, er hann seger: Laated af Illu, læred gott ad giøra, þo ad ydar Synder sieu raudar sem Blood, þa skulu þær snioohvijtar verda, og þenked til, ef þier ødruvijs giøred, ad hvad Madurenn nidursaer, þad mun hann uppskiera, Gal. 6. og þad epter þvi sem DRottenn hefur i sijnu Orde openberad;

Þeir Otrwu Þioonar, Forsmaan og vondar Giørder, Vanblessan og flioota Fordiorsun; Þeir sa Vinde, enn uppskiera Storm, Hos. 8. Leited Þvi DRottenns nu i Dag, og aakalled hann, medann hann er næalægur, ad hañ mykiune sig yfer ydur, tilreide ydur til sinnar trwrrar Pioonustu, sijdann fullkomna giøre, og vardveite ydur i henne allt til Enda, fyrer JEsum Christum, Þaa mun hann blessa ydur, bæde med andlegre og lijkamlegre Blessan, Þaa mun hann bænheyra Himenenn, læata Himeneñ bænheyra Jørdena, og Jordena bænheyra Korned, Vijned og Vidsmiored, og Þaug mun hann læata bænheyra ydur, Hos. 2.

Hvernig skulu nu Guds Born hegda sier i hanns andlega Akre? A ydur sem i honum Þiooned, og ei sijdur enn i hinum, trwlega Þioona eiged, er ad sonnu Þad sama skiled, sem aadur er sagt, ad Þier Otteft og elsked Gud wt af Hiarta, hvad, so Þier kunned skinsamlega epter Guds Vilia ad giora, Þaa athuged:

1. Ad nær Þier erud Akur-Menn i Þeim andlega Akre Guds Christne, ad Þier saaed Þar nidur Þvi gooda Sæde christelegra Dygda, uppaa Þad Þier meged Blessanena uppskiera, hvornig Þier skulud Þad giora, kienner ydur Christur, Matth. 11. segiande: Taked aa ydur mitt Ok, og læred af mier, Þvi ad eg em hoogvær, og af Hiarta lijtelaatur, og munud Þier Hvijlld finna

Saalum

Sælum ydar, þvi ad mitt Ok er sætt, og miñ Þwnge er liettur. Taked epter þessu, Guds Born! Elskann til JEsum giorer þad, ad hañs Ok er hanns Bornum sætt, þvi ad Kiærleikurenn uñber alla Hlute, 1. Cor. 13. Þesse JEsus formællte ecke igiegn þa honum var formællt, og Ognade ecke þa hann leid, enn ofurgaf þad honum sem riett dæmer, 1. Pet. 2. Hann var yfer ollum, enn giordest ollum undergefenn, og vard hlydenn allt til Daudans, Phil. 2. Hann atte alla Hlute, enn gyrntest þo eckert af þvi jardneska Fie ad hafa i Eignarhallde, og eige helldur hafde hañ, hvar hañ mætte Hofde sijnu adhalla, Luc. 9. Hann var heilagur, saklaus, Ofleckadur, og Syndugum fraskilenn, Hebr. 7. Epterfylged hañs Footsporum, þa finned þier Hvijlld ydar Sælum, og þa þier lijded med honum, og nidursæed med Tarum, munud þier med Fagnadenum uppskiera, med þeim er ganga wt grætande, og bera ægiætt Sæde, og koma aptur med Fognude, og bera sijn Bindene, Ps. 126. Lijka sem þeir ed gledia sig af Haustvinnunne, Es. 9. Athuged:

2. Ad aller nidursæest þier i Vansemd i Akur Jardarennar, þvi hvorsu bloomlegur sem eiñ kann ad vera, þa verdur hann samt upphoggenn, so sem Grosen med Liannum, þvi ad allt Holld er Hey, og allur þess Bloome so sem Akursens Bloomstur, Es. 40. enn so þier sieud

um̄, ad þier uppriiſed aptur i Vegſemd, þar læred ad deya chriſtelega, hlyded Rædleggingu Syrachs, er ſeger: Hvad þu giorer, hugſa fyrer Endanum, og muntu alldrei illa giora, Syr, 7. Ef þier lifed vel, verdur ydar Enda-lykt good, enn Æfelok þeirra Ogudlegu er Fyr-erdæmingen, og þeirra Vegſemd, ſem jard-lega eru ſinnader, verdur til Skammar, Phil. 3. Nær Eiken fellur i ſudur eda nordur, og i hvoria Att hun fellur, þar liggur hun, Eccl. 11. So ſem einn er æ ſig komenn i Guds Auglite þegar hann deyr, ſo verdur hann þegar hann uppriis, i þvi ſem hauns Sæluhiælp æhræer-er, Gud gefe oſs øllum, ad lifa gudrækelega, deya chriſtelega, og uppriiſa vegſamlega! Athuged:

3. Ad nær Gud ſaaer ſiña H. Orda Sæde i Akur ydar Hiartna, ſo ad Sæalen ſære þar af Avexte, og ſender ſiina Kornſkurdar-Menn til ad leita Avaxtanna, þa læted þar finnaſt gooda Avexte Trwareñar og Kiærleikañs. For-agted ecke Guds Ord, þad Oforgengelega Sæd-ed, af hvoriu þier erud endurgetner, 1 Pet. 1. Sem er Kraptur Guds, er hiælplega giorer alla þa ſem þvi trwa, Róm. 1. Mootſtanded Diofleñum med Trwnne og Bænenne, ad hann hriſſe þad ecke burt wr ydar Hiortum, root-feſted þad diwpt i þeim, ſo þier hafid þad ſem ydur getur ſtyrkt æ Tiima Freiſtingarma; Læt-ed ecke Þyrna verallblegra Gyrnda og Audæfa,

hind-

hindra Uppvexte þeſs gooda Sædeſens, hvor Eyru hefur ad heyra, hañ heyre þad, þaa munud þier under eins eria og uppſkiera, og Sædenu ſaa, Amos. 9. Hvor þetta Sæde geymer, hann mun ecke ſiaa Daudañ ad eiliſu, Joh. 8.

4. Athuged þad, med ſkylldugu Þacklæte vid DRottenn ydar Gud, ad hann hefur ſett Mañeſkiuna i ſinn Akur, Heimenn, ſo ſem gott Hveite-Sæde, þaa hañ giørde hana i Fullkomlegleika, og epter ſinne Mynd, Gen. 1. Og þaa hun fyrer Dioſulſens Tilteiging, giørdeſt þar epter ſo ſem Jllgreſe, hreinſade hann hana, og wtvegade aptur med ſijnu eigenn Bloode, til þeſs, ad hun frelſadeſt fraa eilijfum Ellde, og yrde Guds elſkulegt Barn, 1 Joh. 1. Act. 20. Gal. 4. Og uppaa þad, hun þeſſa Frelſes niootande yrde, hefur hann endurgeted hana med ſijnu lifande Orde, ſo hun umvendteſt til hanns og lifde; Gleymed ei helldur þeirre hanns Giædſku, ad hann, ſem med ollum Riette, maa brcadlega afſnijda þaa Synduga, bijdur opt leinge epter þeirra Umvendan. Þetta er hanns Þolennmæde, ſem þier ſkulud hallda fyrer ydar Saaluhiaalp, 2 Pet. 3. Med þvilijkre Giædſku vidhelldur hann þeſſum ſijnum Akre, allt til Kornſkurdar-Tijmans, ſem er Heimſens Ender, hvor nu er hardla naalægur ordeñ, epter ſialfs hañs Fyrerſogn, og Petur ſeger: Ender allra Hluta tekur ad naalgaſt, 1 Pet. 4. A honum munu Englarner, hanns Kornſkurdar-Menn, i þeim

Akre

Akre uppskiera, bæde Hveited og Illgresid, og samansafna Guds Børnum i Kornhlødu himneskrar Sælu, enn kasta Sathans Børnum i helvijtskann Elld, Matth. 13 og 24. Nu er Tijme til hiá oss, ad uppskera Jardarennar Avexte, vier vitum ei nema nu sie lijka Tijme til, ad sá himneske Akur-Herrann sende strax Kornsigdenn, so sem þetta H. Evangelium seaer, og sege til sijns Engels: Slá til med Sigd þijnum, og skier upp, þvi Kornskieru-Tijmenn er komenn, af þvi Haustyrkian Jardarennar er þornud, og hann hoggve til med sijnum Sigde á Jordena, og Jorden verde haustunnen, Opennb. B. 14. Taked nu þvi Vara á ydar Vitiunar-Tijma, aller sem þioona vilied þeim sanna Gude med Trwfeste, og giored snarlega Ydran, þvi ad Guds Rijke er nálægt, Matth. 3. Enn sá Gud allrar Náadar, sem oss hefur kallad til sinnar eilijfrar Dyrdar i Christo JEsu, hann mun ydur, sem um litla Stund lijded, fullgiora, tilreida, styrkia, efla og stadfesta, 1. Pet. 5.

**O JEsu! Lát oss, nær þu kemur, óflekkada og óstraffannlega i Fridnum fundna verda, og sijdann innsafnada i Guds Barna Bindene, hiá þier vera eilíflega! Þier, med Gude Fødur og H. Anda, sie Dyrd og Valld, um Alldur og ad eilífu, Amen!**



# A Vetrar Inngaungu Bænadag.

Evangelium, Marc. 13.

Bidied helldur ad Flootte ydar verde ei um̃ Vetur þvi ad aa þeim Døgum verda sliikar Hørmwngar, hvoriar eige hafa vered fraa Upphafi Skepnunnar, þaa sem Gud skapade, og allt til þessa, og eige helldur munu verda.

## Inngaangurenn.

Þetta H. Evangelium, er ein Fyrersogn og Aminning, hvar med Christus JEsus fyrerseger, ecke einasta sijnum Læresveinum, helldur og under eins øllum Monnum, þvi Marc. 13. seger hann: Þad eg sege ydur, þad sege eg

eg ollum; Hvilijkt ad verda mune Hættalag Hormungar-Tijmanna, so vel um̃ þa sijdurstu Jerusalems Eydeleggingu, sem um̃ Veralldar-ennar Enda, þvi hvorutveggiu samtenger hann hier, og wtmælar þa medsomu Ordum, so þar af mæ liooslega skilia ad Jerusalems Foreydsla hafi vered Fyrermyndan uppæ Heimsins Und-ergang; Lijka so æminner hann alla Menn þar med, til ad bidia: Ad þeirra Floette verde ecke æ þeim Tijma, sem Ohendtugast er æ ad flya, epter þad hann ædur fyrer framann hefur rædlagt ad flya, kemnande þeim so, ad Bænen sie eitt Medal, fyrer hvort þeir kunne ad fryast fra Ogiæfu hinna vondu Tijmanna; Enn med þvi þesse hanns Aminning og Kenning snerter þa, yfir hvoria þessa Heims Ende er komenn, þa hafa þeir nærsta nooga Ordsok til ad gior-ast þar wt af vareygdarsamer, uppa þad, þeir komest hia lijkamlega ad flya, enn gete andlega flwed til Guds Nædar, hvar ed er þad betsta Athvarf, ædur enn þeir Ohendtngu Tijmar koma yfir þa. Veturenn er einn Partur þess forgeingelega Tijma, hann er opt Ohendtugur fyrer Flootta-Menn; Ef Menn þurfa ad taka Vara æ honum þess vegna, hvad þa helldur fyrer þvi, ad þar er þrennslags Vetur til? 1. Tijmannlegur Vetur. 2. Andlegur Vetur. 3. Eilijfur Vetur. Sa tijmannlege Vetur er einn viss Tijme sierhvors Ars, af Gude tilskick-adur, æ hvorium Vedred er kalldara enn æ od-

ødrum Tijmum, og Jorden folare, þa upp-
þorna Grøsen og Bloomstren, þa falla Avert-
erner af Eikunum, þa gefur Gud Snioóenn
sein Ull, og dreifir Hrijmfrostenu sem Ösku, og
fleiger sijnu Hagle sem Munnbitum, hvor fær
þa stadest fyrer hanns Froste? Hann mæler
eitt Ord, þa brædnar þad nidur, hann lætur
sin̄ Vind blaasa, so þidnar þad aptur, Ps. 147.
Saa andlege Vetur er almennelega saa Tijme,
a hvorium Menn, annadhvort ecke faa ad nioo-
ta hreinnar Evangelii Kenningar, edur þo þeir
mege þad faa, skeita þeir eckert þar um̄, og ræ-
ka þvi i Villu og Vantrwar-Myrkrum, hvad
ecke sijdst mun framkoma a þeim sijdurstu Dog-
um Heimsins, so sem Guds Ande hefur fyrer-
sagt: Zach. 14. Þa skal DRottenn Gud min̄
koma, og aller Helger med honum, og a þeim
Tijma skal eckert Lioos vera, utann Kullde og
Frost, og Christur sialfur seger: Luc. 18.
Enn þa, nær Mannsins Sonur kemur, mei-
nar þu hann mune finna Trw a Jordu?
Enn sierdeileslega er saa Tijme andlegur Vetur,
a hvorium Saalen finnur ecke til Guds Sæt-
leika, og meinar ecke annad enn hann sie sier
reidur, og þa maa hun kallast sw hin Volada,
yfer hvoria øll Stoorvidre gaanga, Es. 54.
Saa eilijfe Vetur er Kvala-Tijme Helvijtes
Pijsla, a hvorium þeir Fordæmdu pijnast ei-
lijflega, saa Vetr byriast yfer þeim audsynelega,
nær þeir uppriisa til eilijfrar Smaanar og Skam̄-
ar,

ar, Dan. 12. og vidheldst siidann med eilijfre Eymd, hvar ed er Op og Tanna=Gnistran, Matth. 25. Þa mun Hagled vera ofann ad Skoogenum, og sw Borgen þar fyrer nedann mun nedarlega verda, Es. 32. hvar inne þeir munu bliifa eilijflega, enn a medann bwa Guds Born i Hwsum Fridarens. Yfer hvorn sa andlege Vetur er komenn, honum er hættara vid ad geta ei fiwed farsællega, hafe hann þad ei adur uppbyriad; Enn yfer hvorn sa eilijfe Vetur kemur, honum er Omogulegt þadann i fra ad flya, þvi þa mun verda hin stærsta Hormung, þar fyrer skylde sierhvor einn bidia, ad hanns Flootte verde ei um Vetur, so sem Christur kenner i þessu H. Evangelio. Hier wtaf vilium vier framar yfirvega: **Hvørsu Menn skule Vetrar=Tímans Ummþenkíng sier i Nyt færa, ad aller Tímar verde þeim gledeleger.**

O vor Skapare! J hvors Hende ad eru aller vorer Tijmar, gef oss þad ad byria og framkvæma alla Tijma, þier til Dyrdar, enn oss til Velferdar, fyrer JESU Christi Skulld, ad samverkande H. Anda, Amen.

## Utskijringen.

So leinge sem Jorden stendur, þa skal ecke þrioota Sad og Kornskurd, Frost og Hita, Sumar og Vetur, Dag

og

og Noott, seger hinn almaattuge Gud, Gen. 8. Hennann Saattmaala sem hann hefur giørt vid Jordena, Lopted og Tijmana, hefur hønum þocknast ad læta sinn Þienara Moͤsen uppteikna so skilmerkelega, til þess, ad Menn gleyme ecke Gude sijnum, og hanns rettre Þeckingu, þvi þar med minner hann þaa, fyrst, a sijna miklu Myskunseme, ad hann vill ecke allt til Veralldarennar Enda so reidast, ad hann slæe i Hel med Vatnsfloode allt lifande Holld a Jorduñe, og hefur sett til eins Teikns þar uñ, Regnbogann i Skyenn, Gen. 9. Þar næst minner hann þaa þar med a sinn eilijfa Sañleika, so þeir trwe hanns Orde, ad lijka sem allt þetta stendur epter þvi Orakad, so stande og allt þad sem hann hefur i þvi sagt, vilie þar fyrer nockur Syndare andvaralaust, aan Ydrunar og Aflaats, i sinne Hvermoodsku enn þaa syndga, trwande ei ad hann mune þo þess vegna fyrerfarast, so sem Christur seger: Luc. 13. Þaa giæte hann ad, hvort Saattmaale Guds vid Sumar og Vetur er farenn ad þrioota, eda vilie nockur Syndare sem med harmþrwngnu og sannydrande Hiarta flyr til Guds Naadar, efasamur gioorast, og þeinkia ad Gud mune fyrerlijta hann edur fraa fraa sier reka, hvar i moot þo Guds Ord vitnar, Ps. 51. Joh. 6: Giæte hañ eiñig ad, hvort Saattmaale Guds vid Frost og Hita er fareñ ad þrioota, og munu þeir jaa-

ta ad Veger DRottens eru ecke utan Myrkunseme og Sannleikur, Ps. 25. Hier ad auke verda Menn med þessum Scattmaala minter aa Guds almaattuga Stioornan, so ad þeir hrædest, bæde fyrer þvi, ad vera honum Ohlydner, og ad finna ad þvi sem hann giorer: Hanns Skiepnur, Vindurenn og Sioorenn hlyda honum, Marc. 4. Hann hefur hamlad Siaafarenns Ofluþe med siinum Garde, og sett Steyngur og Hurd þar fyrer og sagt: Allt hijngad ad skalltu koma, og ecke lengra, hier skulu þijnar stolltu Bylgiur leggia sig, Job. 38. Fyrer hanns Ord, sellur mikell Snioor, Syr. 43. Fyrer þessu hrædast Menn, þvi skylldu þeir þaa ecke miklu framar hrædast þann sem þetta giorer? Þetta kann ad skada Mannsens Lijf, epter hanns Bode, enn ei framar, enn hann getur Lijfe og Saalu tortijnt til Helvijtis, Matth. 10. Vilie hann nockud giora, hvor vill finna ad þvi? Vei þeim sem moglar aa moote sijnum Skapara, einkum, sem er Skurned Leyrsens, moote Leyr-Kieraśmidnum, Es. 45. Gud hefur Veturenn giort lijka sem Sumared, þvi aa saa Tijme af honum gefenn eins vel ad medtakast med Þacklæte, og aan Moglunar, og þad jafnvel þo Menn reyne aa honum nockud nijootdrægt, einkum, þar hann hefur þeim ecke wt i þann Tijma raadlausum sleppt, helldur kennt þeim þaug goodu Raad, ad bidia, so þeir kynnu ad frijast fraa þess Tijma Ohentugleik-

leikum, hvad þeir skinsamlega kunna ad giora, ef þeir vel yfervega hanns Hættalag; Hvada Umþeinkingar, skal þaa ein christenn Manneskia, færa sier i Nyt af Vetrenum? Jhuged:

1. Christner Menn, ad a Vetrenum, er Jorden Ofriossom, þaa þyker Moñum stundum, Himenenn yfer siinu Hofde vera sem Kopar, og Jorden under þeim sem Jarn, Devt. 27. Þo er þad ecke so, a medann Gud syner sig ecke reidann, þar ed hann forsorgar þaa so dadsamlega, og lætur þaa ecke lijda nockra Neyd, enn villde hann i Reide sinne straffa, og slaa bæde Vetur-Hws og Sumar-Setur, sem hann hootar, Amos. 3. So Menn hlytu ad kvarta og segia: Sumared er i burtu, og oss kemur eingenn Hialp, Jer. 8. Þaa kyñe Monnum so ad synast; Þo mega þeir lata sier lynda. þar med, sem til miklu þyngra unned hafa, og þad, þott hann skipade þeim ad flya til Ovina sinna, so sem Zedechiæ Konge, Jer. 38. Skipe hann ad flya, hvor vill þaa vidstanda? Skipe hann ydur under einhvoria siina Hirting, hvorsu vilied þier hana þaa umflya? Þar fyrer hafid Raad Christi i Tijma, og biddied ad ydar Flootte verde ei um Vetur, ad þier hliooted ecke ad verda Floottamenn a þeim tijm annlega Vetre, med þvi þaa er lijtel Lijfsbiargar Von a Eydunum, ad Sumared verde ydur ecke sem Vetur, Floottanns vegna, ad Gud straffe ydur ecke i sinne Reide, helldur epter siñe

mikellre Myskunseme, afvende fraa ydur for-þentum Plaagum; Bidied vel, enn ecke illa, epter Raadleggingu Jacobs, Jac. 4. so ad þier Bænheyrder verded; Skilied ydur vid ydar Synder, þvi Gud bænheyrer ecke Syndnga, Joh. 9. þad er, þaa Ydrunarlausu, og þo þier bidied margfalldlega, þaa heyrer hann ydur þo ecke, ef ydar Hendur eru fullar af Bloode, Es. 1. Bidied Gud ad burt-taka ydar Hiartans Mootþrooa, so hann hafi ecke þad Sinne til ydar, sem hann sagdest hafa fordum til sijns Foolks, fyrer Munn Jeremiæ: Enn þo ad Moses og Samuel stædu frame fyrer mier, þaa hefde eg þo ecke neitt Hiarta til Foolks þessa, Jer. 15. Bidied af Alvøru, annars kynne hann ad klaga yfir ydur sem Jsrael, er hann seger: Eg leitade aa medal þeirra, hvørt nockur sette sig Mwr-Vegg mier i gegn, vegna Landsins, so eg skyllde ei fordiarfa þad, enn eg fann eingann, þar fyrer wthellte eg minne Reide yfir þaa, Ezech. 22. Þar fyrer snwed ydur til DRottenns, og seged so til hanns: Fyrergef oss allar vorar Synder, og giør þu oss gott, so vilium vier offra Yxnum vorra Vara, so vil eg lækna þeirra Misfelle aptur, eg vil giarnann elska þa, þaa skal mijn Reide sviptast fraa þeim, seger DRottenn, Hos. 14. Þaa verdur hann ydur eitt Skiool fyrer Stoorvidrenu, nær Vijkingarner Olmast sem annad Hretvidre vid Hwss-Vegg, Es. 25. Jhuged:

2. Ad

2. Ad a Vetrenum falla Avexterner af Triænum; Menn vita þo, ad þaug behallda lenge Volnum, og eiga Von til ad bloomgast aptur med Sumrenu. Þo þier hafid Bloomann i Verolldenne, og sieud sem þurr Stofn, þa lated ydur þad ecke mislijka; J þvi er ecke ydar Hroos, ad þier hafid allt þad sem Heimurenn kallar Fegurd og Fullsælu; Hinn Vijse hroose sier ecke af sijnum Vijsdoome, hinn Ofluge hroose sier ecke af sijnu Afle, hinn Rijke hroose sier ecke af sijnum Rijkdoome, helldur hver ed vill sier hroosa, hann hroose sier af þvi ad hann vite og þecke, þad eg sie DRottenn, sa sem ad giøre Myskunsemena, Doomenn og Rettvijsena a Jordu, Jer. 9. Læted ydur þad nægia, ad þier eiged Von til ad verda blomleger i Himnarijke, og vited, ad i DRottne er allt ydar Hroos, og hver hann hroosar sier, hañ hroose sier i DRottne, 2. Cor. 11. Hvad er kostulegra fyrer ydur, enn ad verda druckner af Nægdar Giædum hanns Hwss? Ps. 36. Hvad er fegra enn ad lioома sem Sool i Rijke ydar Fødurs? Matth. 13. Þad er noog Æra, nær þier i þeirre nyu Jerusalem verded Adal-Kvister Guds Rootsetningar, honum til Dyrdar, Es. 60. Jhuged:

3. Ad a Vetrenum, verda Grøsen føl og visenn. Þad er ydur eitt Minnes-Teikn uppa ydar Afgang, þvi Gud lætur Mennena burtkijda, lijka sem Gras, þad er snarlega upp-

visnar, Ps. 90. Folked er Heyed, Heyed þad uppþornar, Blomstred visnar, Es. 40. Hvørsu verdur Manneskiunnar Holld urlijtande, nær sæ kallde Daudanns Vetur yser hana kemur? Verdur þad ecke folt og bleikt Lijk? Hverfur ecke oll þess Fegurd i einu, hvørsu frijdt sem þad hefur vered? Ef þier þar til þenked hvort Sinn sem þier lijted þaug folnudu Grøsen med ydar Augum, mundud þier af sijseldre Umþenking ydar Vidskilnadar, forsiælare verda; Hvør sem stolt-hiartadur er, og þykest siælfum sier fullnoogur um alla Hlute, hann hygge þar ad; Hvør sem odrum fremre þykest æ medal Mannanna Barna, hann hygge þar ad; Hvør sem þykest nockud vera, þar hann er þo eckert, hann hygge þar ad; Hvør sem sier sinn Næunga þannig folna, hann hygge þar ad; Hyge þar aller ad, so sem þeir ed hafa Skilningsfulla Sæl, uppæ þad, ad þier deyed ecke lijka sem Fenadur, Ps. 49. Ihuged;

4. Ad æ Vetrenum er Vedurættan kolld, þo hefur Gud af sinne Giædsku, gefed Mønnum Klædnadenn til Medals moote Kuldanum, sieu Klæden sliten, skyla þaug ecke so vel, og slitna meira sieu þaug ecke bætt; Hvørs Umþenking, ydur mæ koma til ad minnast Orda Salomons, er hann seger: Hvør einn vondu Hiarta kvedur Kvæde, þad er lijka sem slited Fat um Vetur, Prov. 25. Hann syner þar med, ad ef nockur vill kienna gott, þeim sem vond-hiartadur er,

þæ

þá verde hann verre vid þad, so sem þá einn i Ovedrenu brwkar slited Fat, enn vill ei bæta þad, þá verdur þad verra; Gioreſt ecke so linder, helldur, nær þeir heyred goodar Kienningar, þá æſetied ydur ad batna þar vid, þvi ſæll er ſá sem vaker, og vardveiter ſijn Klæde, so hann gange eige nakenn, so ad ei ſiaiſt hañs Oſoome, Apoc. 16. Setied þann Gieſt fyrer ydar Hugſkots-Siooner, sem vantade Brwdkaups Klæded, og læted hann vera ydur til Vidvorunar, ad þier ecke med honum, kaſtader verded i hin ytſtu Myrkur, þar ed vera mun Op og Tañagnyſtran, Matth. 22. helldur ad þier fylled þeirra Flock, sem ſijn Klæde varveitt hafa þveigenn og hvijtfægud i Bloode Lambſens, sem uñſkrydder eru hvijtum Skrwda og Palma-Vidur i þeirra Houdum, Apoc. 7. Jhuged:

5. Ad æ Vetrenum frioſa Votnen, þad ſkal vera ydur Ordſok til ad þenkia uñ þañ andlega Vetur, þvi þo rennande Votn flioote af Jeruſalem bæde Sumar og Vetur, Zach. 14. sem eru Nædar-Straumar Guds Orda, þá er sem þaug frioose, nær þau koma so langt, ad þaug renna ſkule allt inn ad Hiortum þeirra Manna, i hvorium þaug ſá ecke ad hafa ſijna Verkan, vegna þeſs Froſts sem þar er fyrer, hvad ed formerkeſt einkum æ þeſſum Tijmum, æ hvorium Ræanglæted yfergnæfer, og af þvi koolnar Kiærleikur margra, Matth. 24. Kiærleikurenn, sem þo er hvad meſt hrooſad i Guds

 Orde,

Orde, fyrer hvorn Trwen verkar kroptuglega, næde hann heitur ad vera. Gud giæfe eingenn hitte æ þann Vetur, æ hvorium Manneskian fyrer þad hun elskar Ræangletед, vill ecke læta sig leingur verma med þessu Vatne, yfer hvorsu Gud so hardlega klagar, og seger: Þar er eingenn Trw, eingenn Kiærleike, eckert Guds Ord i Landenu, Hos. 4. Þad er sem Guds Ord sie eckert i Tillite til Mannanna, þegar eingenn vill hlyda þvi, þegar bæde vantar Trwna og Kiærleikann, sem eru þeir hellstu Hluter, er Guds Ord skal verka i Mannenum; Þvi til hvørs mæ þad þæ gagna annars, enn ad hann hafe þann sem hann dæmer æ effta Dege? Joh. 12. nema þad verke i hønum Umvendanena, so ad hann æ ny, ødlest Trwna og Kiærleikann; Hygged þvi ad Orde Drottenns, sem hann seger: Mal. 1. Em eg nu Fader, hvar er þæ minn Heidur? Er eg Herrann, hvar Ottast Menn mig? Og so þetta sie ydur til einnrar Aminningar, þæ hafed enn Ræad Christi, og bidied ad ydar Flootte verde ei um Vetur, ad Gud take burt þad Stein-Hiartad, wr ydru Briooste, og gefe ydur eitt kiotlegt Hiarta, Ezech. 11. Adur enn ydar Hiarta olldunges forhardnad verdur, og so stock frosed, ad þad kann ecke aptur þydt ad verda, ad hann verme ydar Hiarta og þydt giøre med Vøkvan sinnar Ræadar, so þier i Trwne øfluger, og i Kiærleikanum brennande verded

med

med Stoduglynde allt til Enda; Hlyded hanns Orde, og medann þier heyred þad, þaa þecked ydar Vitiunar Tijma ad vera yferstandande; Hallded ecke hanns Ord Smaamune vera, helldur, verked ydar Saaluhiaalp med Ugg og Otta, epter Bode Pauls, Phil. 2. Heyred hvad DRottenn seger: Mich. 6. Þu Manneskia, þad er þier sagt hvad gott er, og hvad DRottenn heimter af þier, sem er, ad hallda Guds Ord, og hafa Kiærleika og lijtelæcka þig fyrer þijnum Gude, og aptur, hvor sem Ottast hañs Nafn, honum skal gaanga vel. Ihuged:

6. Ad aa Vetrenum verda Grøsen swen og Onyt, og liggia einkis virdt under hvorre Hrijd, hvørsu søgur sem þaug hafa vered um Sumared, hvad ed er ein Samlijking uppaa þann eilijfa Vetur, sem byriast øpennberlega yfir þeim Ogudlegu, þegar þeim, med Smaan, uppriisnum, skipad verdur fraa Guds Auglite, aa þeim Dege DRotteñs, sem er yfer þeim hañs Reide-Dagur, Dagur Storms og Vindar, Dagur Myrkurs og Dimu, Dagur Skya og Þoku, Zoph. 1. Þaa verdur þeirra vitiad af DRottne med Stoorvidre, med Stormvinde og Ovedurs aattu, Es. 29. Þvi Stormvindur DRottenns mun koma med Grimd, og eitt hrædelegt Hretvidre mun falla yfir Hofud hinna Ogudlegu, Jer. 23. Þaa munu þeir ollu Hollde ad Vidurstyggingu verda, Es. 66. Hvør mun þaa geta umvendast og snwed sier til DRott-

enns, þegar wte er ad syndga, þegar wte er ad ydrast, og eitt eilijft Straff er uppbyriad? Þar fyrer hafid enn þaa Raad Christi, og bidied ad ydar Flootte verde ei um̃ Vetur, ad sa kallde Kvala-Tijme eilijfra Pijsla, kome alldrei yfir ydur, aa hvorium þeir Ogudlegu verda aa Flootta rekner, fraa Guds sælu Auglites Sioon, og sa heñar alldrei þadañ af ad nioota. Christi Raad eru betstu Raad, hann kann ad keña Raad til þess, ad Menn frijest fraa Olucku hinna vondu Tijmanna, i hvors Hende Tijmarner eru; Hann seger: Bidied! Giored so eiñig, þier sem treysted uppaa Nafn eingietenns Guds Sonar, hvor ed sagt hefur: Hvors þier bidied Fodurenn i mijnu Nafne, þad mun hañ gefa ydur, Joh. 16. Og þad meira er, ad hañ mun sialfur bidia fyrer ydur sinn himneska Fodur, þvi þier hafid Arnadar-Mañ hiaa Fodurnum, JEsum Christum þann riettlaata, og hann same er Forlijkun fyrer vorar Synder, 1 Joh. 2. Þo þier ecke bænheyrest fyrer ydar Bæner, þaa samt fyrer hanns Forþenustu og Fyrerboon, bidied þvi i hanns Nafne, ad aller Tijmar farsælest ydur, med stodugre Trw um̃ Bænheyrsluna, hvad þier meged glader giora, af þvi ad þier eiged myskunsamann Gud fyrer miøg goodgiarnann Fodur, sem frelsa vill nær hann er aakalladur; Af þvi ad þier eiged saunnordañ Gud fyrer Fodur, hvors Ord øll eru Sannleikur; Af þvi ad þier eiged almaattugañ

ugann Gud fyrer Fodur, hvors hægre Hond ollu kann um̃ ad breyta, og þvi seger Frelsarenn i þessu H. Evangelio: Bidied! Ad hañ þar med kenne ydur, ad sa mœ med Glede bidia, sem œ viist ad fa þad hann um̃bidur.

O þu allra giædskurikaste HErra! Myskuna oss epter þinne mikelle Myskunseme, og lát oss finna Náð fyrer þinu Auglite; Gef oss bæde Vilia og Mátt, til ad flya til þin alla Tíma vors Lifs, og rek oss alldrei burt frá þier, hvørke þessa Heims nie annars, fyrer JEsu Christi Forþenustu saker, AMEN AMEN.



Sumar



# Sumar Heilsan.

## Kveden af Profastenum Sál.

## Sr. H. E. S.

Ton, Hiartad Þánkar, ꝛc.

Salve Blooma Sumared rietta, Salve Dagurenn hlijr og vær, Salve Liooma Soolen metta, Salve Hagurenn nijr og kiær, Salve Fugla Saungur hijr, Salve Jardar Groodur dijr, Salve Hlijda Sælu Mynden, Salve þijda Kiælu Lynden.

2. Innſtu Dygda Akurlende, Avoxt hveñ ſære ſkiott, verde Stygda Vetrar Ende, Von og Trwen næreſt ſliott, Elſkan ſprette og Audmyktinn, og Andans riette Bloomenn hinn, þad Sumared innra ſølne eige, þo Sumared ytra ſølna meige.

3. DRotteñs Myſkun diwpuſt hylie, drijgdra vorra Synda Hæd, Sandkorn lijted ſem ad dylie, Sicafar Haſſins mæſta Æd, allar hiadne Araaſer, ſem Jſenn braadne, Glood fyrer, Angurs-Kiælan oll ſw hlijne, eiñs og Sool i Heide ſkijne.

4. DRottenns Smurda Sumar-Soomenn, ſijvaxande krijne hæatt, Chriſtur ſtyrke Kienne-

doomenn, so kunne vinna Diofuls Maatt, Valldstiett rate veralldlig, Vitskunnar þann retta Stig, Hußstiorn Biorg og Blessan fææ, best hvor sinnar Skylldu gææ.

5. Girding vor sie Guds Hiaalpræde, Groodrar Doggen JEsu Blood, Indes Blærenn, Andans Giæde, Orded DRottenns lyfi Þiood; Lækne ofs Sææren Lausnaranns, lauge Tææreñ dreyrug hanns, Sacramented Sææleña neste, sinn ei Hollded Vordenn breste.

6. Sumared Naadar so vier holldum, sijprijsande DRottenn Gud, ad Dyrdar Sumar aa efstu Olldum, ofs veitest med Hææ-Fognud, Sumar og Vetur sie þier Dyrd, Sumars og Vetrar HErrann skijrd, þig Vetur og Sumar vier aakollum, Vetur og Sumar Lykna ofs øllum.

## Sumar Kvedia

Med sama Lag.

Far vel! Sumared faagad Blooma, Far vel! Dagurenn hlijr og vær, Far vel! Soolen full af Liooma, Far vel! Hagureñ dijr og kiær, Far vel! Saungureñ Fugla skijr, Far vel! Jardar Groodur nyr, Far vel! Hlijda fagra Myndeu, Far vel! þyda Vatna Lynden.

2. Innstu Dygda Akurlende, Avoxt sprotteñ geyme siñ, Sumar-Tryggda ei sie Ende, efle DRottenn Kiærleikinn; Von og Trwen vidhaldest, Vøkviñ Andans margfalldest, innra Vet-

Veturenn ei þad fierde, þo ytra Vetureñ Frost-
ed herde.

3. Mistred Synda fraa oss fære, fyrergesande
Astar Þeyr, so sem Vinda Blaastur bære, burtu
Sky, þau siaast ei meir; Augum Guds þad allt
sie fiær, sem Austred kemur ei Vestre nær, af-
maad Skrift sem eingenn reke, eins og Driften
Folldu þeke.

4: DRottenns Smurda grooe Giæde, sem
grænn Cedrus aa Vetrar Tijd, Kennedoomur-
enn kys eg stæde, sem kiarngood Vidsmiørs
Eiken frijd: Sw veralldlega Valldstiett sie, sem
Vøtnum nærre plantad Tre; Þo Hwssstioorn-
ena Þwugeñ þiaae, Þroska Palmavidarens næe.

5. Vort sie DRottenn Vetrar-Ræde, Vet-
rar-Svølun JEsu Blood, hanns Verdskulldan
Vetrar-Klæde, Vertar-Lioos hanns Orden
good, Vetrar-Lækniñg vor hanns Saar, Vet-
rar-Laug hañs dreyrug Taar, Vetrar-Fæda hañs
Velgiørningar, Vetrar-Ræda hañs Setningar,

6. Vetrar Vetrun vorre heitum, aa Vetre
Nauda, christner Meñ, i Vetrar Setrum var-
lega breytum, Vetureñ Dauda kemur señ, Vetur
og Sumar vere oss hiaa, saa Vetre og Sumre
stijra maa, hañ Vetur og Sumar vier aakollum,
hañ Vetur og Sumar lykne oss øllum.

## Vers i Inngaungu Vetrar.

Kveden af Sr. S. J. S.

Ton, Sæler eru þeir aller nú.

Striids-Merke JEsu under enn, uppbyrium Vetur, christner Menn, audlega beriast eigum, sem herkner Striidsmeñ HErrauns þo, hvor fyrer oss a Krosse doo, uppgefast ecke meg-um: Verum trwer og vakande, vongooder ætiid bidiande, senn kemur Sigurvinning: J Fridar Einingu framgaungum, fyrer Varnar-Skiolld æ hofum, Christi Kross-Dauda Minning.

2. Vertu, JEsu, i Vetur med, verm og upplioома Saalar Bed, med þiinu Orde og Anda, reisa oss diiru Rettlæte, reidstu ei voru Dug-leyse, hiir virdstu hia oss standa, Orvænting-unne a burt hrind, eyd sem Sky-Flooka vorre Synd, daglegu deil oss Braude, saaluhiaalplega send þu Nægd, syndu i ollum Raunum Vægd, er þienar þiinum Saude.

3. Eg fel so endurleysta Ond, O sæte Gud! i þiina Hond, med ollu þvi er og orka, i Liifi, Deyd og Dóme bid, O Rottenn JEsu mier veittu Lid, briót Satans Bana-Forka; Hald þu mier JE-su hraust vid þig, HErra JEsu ei forlaat mig, gef mier vid þig ad þreya, laattu mig JEsu lifa þier, liika deya nær hiedañ fer, og syngia eiliift, Eja!

## Vers i Utgaungu Vetrar.

### Ton, O Gud vor Fader sem i H.

Himneska Fodurs Hiartagiædsku Hlyenden, yfir innra og ytra Mann, i Vetur sveim-ad hafa, oll Hægd og Blessan af hanns Hende er

er wtfloten, Nægten af Brunne Nædar-rann, nidur til vor sialfkrafa, midt i Þvi sem hann moodaum vier, Myſkun hanns ad oss ſtreymer: O! hvad Madur er Minnes-Þver, til Millde Guds valla dreymer, þo hiꝏ oss Daga alla er, sem Auga-Siꝏlldur geymer.

2. Yndæluſt JEſu Adſtod Þijn og Augna Vakt, vegſameſt bæde ꝏ Himne og hier, um̃ Heims giorvallar Byggder, Þier sie Hroos, Ær a, Hꝏtign, Vellde, Heidur, Magt, lofe Þig allt hvad i oss er, fyrer eilijfu Þijnar Tryggder, vere bleſſad Þitt Væ͏ngia Skiool, vel hefur Þad oss dugad, Þitt dijrmꝏta Sañleiks Ord oss Ol, eingenn Hormung feck bugad, O! Þu Rettlætes ſanna Sool, sie Þier æ um̃ oss hugad.

3. HErra JEſu, er Hryggda Vetur hærſtañ fannſt, og Freiſtinga Elen fꝏrleguſt, fyrer oss Synd-Þiakada, hvar med eilijfar Værder Sꝏlum vorum vannſt, og Hlyenden Sælu hagſtæd uſt, heimleid oss i Þier glada. Þo lijdum Skwrer Hryggda hier, HErra, verde Þinn Vilie, Þolennmooder gef Þreyum vier, Þiꝏningꝏ Tijmanns Bilie, enn eingenn Hlutur oss frꝏ Þier, O! JESU, JESU! ſkilie, AMEN.


